# Nýjar
# Viku- Missiraskipta-
og
# Hátída-Bænir,
ásamt

nýjum
# Viku- og Missiraskipta-
# Psálmum.

---

Qverid selst almennt innfest 9 skild.

---

Leirárgördum vid Leirá, 1798.

Prentad á Forlag Íslands almennu Uppfrædíngar Stiptunar, af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.



# Til Lesarans.

Dagleg reynsla sannfærir ecfda Kénnendur, ad sonnu lestrar, bænir og saungvär, sem dagliðan- lega þyljast og syngjast dag eptir dag, ár eptir ár og öld eptir öld, hafast traudlega med þeirri athygli um hönd; jafnvel medal gódra og upplýstra, hvad þá midur gaumgæfinna einfeldnínga? sem hitt, er brúkast til skipta



og sjaldnar er staglad á, þvi annars mundi ein og sama bæn, sama prédikun og sami psálmur til gudrœknis upporfunar alla tíma nægja; en hvikúlu athygli, veiku og óstödugu edli mannlegra sálar-krapta henta best nockrar tilbreytíngar. Því gánga nú þessar nýju Viku- Missira-skipta- og Hátída-Bænir, ásamt nýjum Viku- og Missiraskipta-Psálmum á prent til ad bæta úr umqvartadri eklu á þesshattar qvernum. Bænirnar eru allar gjördar af Prestinum til Mela og Leirár, Hra. Bjarna



Bjarna Arngrímssyni, nema Bænin eptir Prédikun á Helgidøgum og Nýárs-bæn-in, sem eru frá annari hendi. Psálmarnir eru qvednir: No. 1, 2 og 9, af Prófastinum í Mýra sýslu, Hra. Christjáni Jóhannssyni; No. 11 af Prestinum Hra. Þorsteini Sveinbjørnssyni á Hesti; No. 7 af Prestinum Hra. Þórarni Jónssyni á Myrká; No. 3, 4, 5, 6, 13, 14, 16 og 17 af Hra. Skóla-haldara Þorvaldi Bødvarssyni; en um No. 8, 10, 12 og 15, mun

Lesar-



Lesarium kénna mér. Hann ylrdi góds vorar sameiginlegu tilraunir, og hann njóti af þeirra saung og lestri þeirrar gudrœknis uppörfunar og uppbyggíngar, sem þeirra Hofundar svo einlægt óska!

Leirá, þann 20ta Dec. 1798.

M. Stephensen.

Viku-

# Viku-bænir.

## Sunnudags Morgun-bæn.

Min sál lofar Drottinn! og minn andi gledst í Gudi Frelsara mínum! því hann hefir gjört mikla hluti vid oss; hann hefir minnst sínar miskunar, og volduglega vardveitt oss í næturinnar myrkrum, gefid oss vært ad sofa, og heilbrygdum upp aptur ad standa; offrum þar fyrir Drottni þacklætinu, og gjöldum enum hæsta vor heit! það sé vor ydja og hjartans yndæli nú strax á þessum Drottins-dags morgni, því þess vegna erum vér svo dásamlega verndadir í nótt og allt híngad til; gleymum ecki, ad dag-

 urinn

urinn er einkum til þess ætladur og géfinn oss, ad vér á honum minnast skulum Drottins dáseimda, og helga vora sálu med bæn og andakt honum til þjónustu. Drottinn Gud! án þín megnum vér ekkért! send oss því þinn anda, sá ed upplýsi oss, og leidi oss í allann sannleika, svo vér hafa kynnum vora lystingu í þínu lögmáli. Géf oss med hreinu hjarta ad birtast fyrir þér! upplýs vora skilning, helga vorn vilja fyrir þitt ord í dag, svo vér af þess heyrn og lestri færa kynnum mikinn ávöxt þér til dýrdar, en oss til ríkuglegra sáluhjálpar nota fyrir Jesum Krist, Amen.

## Sunnudags Qvöld-bæn.

Drottinn! þér einum tilheyrir dýrdin og heidurinn, þacklætid og lofgjördin fyrir allt gott oss veitt og géfid, og einkum fyrir þessa

dags dýrmætu velgjördir. Eptir þinni mikilli miskunsemi, hefir þú ecki einúngis vardveitt vorn andardrátt, gladt og endurnært vort líf med margfeldum gædum, heldur þar á ofan frambodid oss í þínu sannleikssins ordi lífid og sáluhjálpina fyrir Jesum Krist, kennt oss ad þeckja medolin til vorrar betrunar, og sýnt oss mátann hvornig vér lifa ættum, svo vér réttilega kynnum ad færa oss nyt og gledja oss vid þínar gáfur, gætum vonglader umborid mótlætid, og fengjum stadist á hinni vondu tíd. Þú hefir í þínu heilaga ordi látid vitna fyrir oss um þad, sem vér annars daglega þreifum á í voru lífi: ad þú ecki viljir syndugs manns dauda, heldur ad hann betri sig og lifi, já, lifi hér svo farsæll, sem unnt er í þessu daudlegleikans holdi, en eilíflega fullsæll annars heims. O! ad allt þetta væri oss ecki nú þegar gleymt,

 held-

heldur ad vér í qvøld útaf sofna mættum med þeim einlæga ásetníngi, ad komanda morgni og alla vora æfi hédanaf, ad framqvæma þad í verkinu, sem vér af Guds ordi numid høfum, svo verdur svefniñ oss í nótt og allar nætur vær og blessadur, og vor sídasti dauda-dúr sáluhjálplegur inngángur til eilífs ljóss og lífs, Amen.

## Mánudags Morgun-bæn.

Lofa þú Drottinn, mín sál! og allt hvad í mér er vegsami hans heilaga nafn! Þig vil eg þacklátur prísa, minn skapari og minn Gud! sem vardveitt hefir mig og mína frá allri olucku á aflídinni nóttu, gésid mér værd og ró, og med endurnærandi svefni styrkt svo mína krapta, ad eg gét nú med hraustum líkama og gladværum anda gengid til minna sýslana, mætt dagsins mæd-

lunr,

num, og dýrkad þig med trúlyndu erfidi í þeirri stétt, sem þín alvísa forsjón hefir mig í settann; æ! allt eru þetta födurlegar velgjørdir vid mig óverdugann, gódi Gud! þó eg svo sjaldan hafi vid þær kannast, og, því verr! enn sjaldnar brúkad þær svo trúlega, sem þú tilætlad hefir; fyrirgéf, mildi fadir! mína vangætslu, fyrir Jesú skuld, og géf mér nád þína framvegis, ad eg ætid minnugur sé, hvorjum eg hefi líf og hrausta krapta ad backa, og til hvørs og hvørnin eg verja egi þessum dýrmætu gáfum, svo eg ætid sé viss um þína velþóknun á mér. Lát þenna-ann þánka vakandi vera í vorum sálum á þessum degi, í øllum vorum verkum og umsvifum, þá munu vor fyrirtæki vel luckast, þín náð fylgja oss, og þitt fulltíngi styrkja oss; því hefir þú lofad, og þín loford bregdast aldrei, øll þín fyrirheit eru já og Amen.

# Mánudags Qvøld-bæn.

Vertu hjá oss, Drottinn! þvíad qvøldatekur, dagurinn er þegar lidinn og myrkrid yfirfellur; ótelandi eru þær háskasemdir, sem oss og voru veika lífi máské búnar séu á þessari nóttu; æ! vér veikar og skammsýnar manneskjur þeckjum þær hvørki né fáum þeim afstýrt. Vor máttur er ríngr, en vodinn hvørvetna, þørfin mikil; vertu því ecki fjarlægur, heldur stattu hjá oss, Drottinn! vort hjálpræði, á þér einnum er øll vor von, lát oss ecki til skammar verda; þú einn þeckir grant og sjer hvílíkt skadrædi þessi nótt máské hafi oss búid, þú veitst líka rád og medøl til ad afvenda því, þinn er mátturinn og dírdin ad eilífu; banna øllum voda ad granda oss, edur nockru því, sem þú gefid hefir oss til yndis og nota í lífinu. Þín nálægd umkríngi oss, þinn mátt-

máttur hlífi oss, og þín forsjón vaki yfir oss; þá kann oss ekkért íllt ad henda, svo hlýtur ógæfan sjálf ad snúast oss til værdar og heillá. Í því trausti legg eg mig óhultur til svefns, offra þér audmjúku þacklæti fyrir dagsins velgjörnínga, og afhendi mig svo, og alla mína, med lífi og sálu og ollum efnum í þínar hendur. Vertu hjá oss í voku og svefni, vertu vor Gud í lífi og dauda, Amen.

## Þridjudags Morgun-bæn.

Lofsýng þú ønd mín Drottni Gudi þínum, þínum verndara og vidhaldara sem svo fødurlega hefir vakad yfir þér med hlífd sinni og vardveitslu á umlidinni nóttu, ad ekkért vondt hefir nád ad snerta þig né þad þér vidkémur; myrkrid gjørdi hann þér ad verju, hvílu-rúmid ad gridastad, og svefninn ad endurnærfingu,

og nú géfur hann þér med nýjum degi nýja rokseund um þad, hvørsu hjartanlega gódur og gædskurikur fadir og verndari hann er sinna vanmáttugu barna. Eg vil því uppvaknadur byrja þína lofgjørd, framtelja þínar velgjørdir, og med hjartans þacklæti vidurkéña minn óverdugleika til þeirra, og alls þess góda, er þú á aflidiñi nóttu og allt híngad til hefir audsýnt mér. Æ! hvad erum vér, Drottinn! ad þú audsýnir oss svo mikla hluti, ad þú þañig sýnir á oss stærd þiñar miskunar og trúfesti. Já, því meira gott, sem þú gjørir oss, því framar viltu locka oss til elsku og hlýdnis vid þig; æ! skyldum vér á þessum degi neita þér gódi Fadir! ad fylla svo notasæla skyldu vora! nei! í þínum krapti vil eg gánga á móti dagsins freistíngum, stattú mér til hægri handar, svo eg ecki hrasi, engann hlut adhyllist, sem þú bannad hefir, eckert framar á-

stundi

ſtundi, enn ad þóknaſt þér; og verda ſæll í elſkunni til þín; ſvo verd eg bleſſadur af þér, bleſſadur í inngangi og útgángi, bleſſadur fyrir Jeſúm Kriſt, Amen.

## Þridjudags Qvøld-bæn.

Gódi himneſki Fadir! í þér lifum, erum og hrærumſt vér, frá þér einum flýtur øll góð og øll fullkomin gjöf nidur til vor, af nád þinni erum vér til, og þín trúfeſti, lét oſs aflifa þennann dag, þad vidurkénnir vor ſála med hjartans þackláti á þeſſari qvøld-ſtundu. Fadir! þín gódgirni er og hefir verid yfirgnæfanleg yfir oſs, en vér høfum ſyndgaſt, vér høfum notid þína velgjørda, og gladt oſs vid þínar gáfur, en tídum gleymt þér, gjafaranum allra gódra hluta, og þó hefir þú enn í dag ecki látid þér leidaſt ad gjøra oſs til góda; þú hefir verndad oſs frá øllu

ſkad-

ſkadrædi, og uppfyllt alla vora naudþurft, ſvo vér þvi fúſari og vareygdarſamari vera ſkyldum til ad lifa þér einum í heilagleika og réttlæti; en, æ! vort gáleyſi! dagurinn er lidinn, margt gott er á honum forſómad, ſem vér þó áttum og kunnum ad gjøra, og margt þad illt adhafſt, ſem þú bannad hefir; þad vitnar vor ſamvitſka! æ! ef þu nú vildir gjøra vid oſs eptir vorum tilverknadi, þá yrdi nóttin hegníngar og eymda nótt, og ſængin bana-ſæng, en þad hughreyſtir oſs, ad þú ert óendanlega gódur og miſkunſamur Gud, þeſs vegna vogum vér audmjúkir ad bidja: lát ecki þína nád vid oſs med degínum enda taka; fyrirgéf! fyrir Jeſú dýra dauda, fyrirgéf vorar margfoldu ſyndir og frelſa oſs frá þeirra ſtraffi og ollu illu ſ komandi nóttu, vér erum þeſs fullviſſir, ad þú heyrir vora audmjúku bæn, þvi hjá þér er mikil fyrirgéfníng, Amen. Mid-

# Midvikudags Morgun-bæn.

Lofad og vegsamad sé þitt dírdar-fulla nafn, Drottinn Gud! sem enn nú í nótt audsýnt hefir oss vægd og miskun, hlíft oss vid ollu mak-legu synda-straffi, neyd og ólucku, en géfid oss rósamann svefn og hæga hvíld; vora krapta hefir þú endur-nært, og vidhaldid vorri heilsu; allt gott þyggjum vér af þinni mildu hendi; þú fyllir vor hjortu med fagnadi, og géfur oss jafnvel hér á jordunni ad njóta margskonar un-adsemda og ánægju í lífinu; oll þín verk og vidhondlan vid oss, er ein-skiær nád og gódgirni; þú hriggir og typtar oss, svo vér því fegnari verdum hugguninni; þú sendir oss mótlætid til ad audmýkja oss, svo vér lærum ad meta og smacka gled-innar yndæli; nóttin og myrkrid minnir oss á, hvorsu dýrmætur velgjorníngur dagurinn og ljósid er,

er, já, allt þad þú giörir, er hárla gott! géf oss með þessu hugarfari ad taka hvörju því, er oss mæta kañ í dag; veri þad blídt eda strídt, þad er oss þó allt hollt og blessad af þiñi hendi, þegar vér ad eins lærum ad færa oss þad í nyt eptir þinni til-ætlun. Vardveit og blessa oss þín-ar gáfur, og géf oss ad njóta þeirrar gledi af þeim, sem þér er þócknanleg; bænheyr oss, og uppfyll vora naud-þurft í dag, eptir þinni dírdar rík-dómi, í Jesú Kristó, Amen.

## Midvikudags Qvøld-bæn.

Eilífi óumbreytanlegi Gud! vorir dagar burtlída, sem skuggi, og allir hlutir kríngum oss umbreyt-ast, en þú ert hinn sami ad eilífu, þín ár þrotna aldrei, því hjá þér er eng-in umbreytíng; þín miskun og trú-festi er enn hin sama, sem hún frá ei-lífd verid hefir, þess vegna lifum vér o! Gud!

o Gud! á þessari qvøld-stundu, og høfum fyrir þína náð útendad dag-inn án slísa og ólucku; ódaudlegar þackir séu þér fyrir það, þú géfid hef-ir oss að þeckja þig eilífann og óum-breytanlegañ Gud, sem aldrei kaūt að bregdast þeim, sem á þig vona. Dagurinn er lidinn, ljósid flýr oss, allt er forgengilegt, en það er vort traust og huggun midt í óstødug-leikanum, að vér egum þig að, þú ert vort ljós og hjartans hlutskipti að eilífu; híngað til hefir þú vernd-að oss, og vidhaldid voru lífi; virdstú að framhalda fomu gœdsku vid oss: vardveit oss mildilega frá øllu íllu á komandi nóttu! og þó vér séum þess ómaklegir, sakir vors óstødugleika í øllu gódu, þá samt vertú oss nádugur; forlát oss dags-ins margfoldu syndir, og sýndu oss veikum vægd, fyrir medalgángar-ans Jesú forþénustu sakir! Amen.

## Fimtudags Morgun-bæn.

Í frá uppgaungu sólarinnar, allt til hennar nidurgaungu, sé nafnid Drottins vegsamad! þú hefir skapad daginn til erfidis, en nóttina til hvíldar oss, og øllum sképnum; æ! hvad innilegu ástar þacklæti erum vér nú ei skyldir ad offra þér á þessa dags morgni, fyrir svo marga hvíldar-nótt og værdar-blund, er vér allt híngad til þegid høfum, en vér þó sjaldnast þeckt høfum, því sídur þegid, sem velgjørd af þinni gódgjørnu hendi. Fyrirgéf, o Fadir! vort athugaleysi fyrir Jesú skuld! og medtak í nád þad ydrandi þackar-offur, sem vér nú í hans nafni framberum fyrir þig! vér viljum í dag og daglega hédan af sýna vort þacklæti ávartarsamt í verkinu: vér viljum láta þad ásannast í ordum og athøfnum, ad vér ecki til [illegible] þegid høfum þína náð, og net-

notid verndar og vardveitslu í nótt, og hingad til; þér viljum vér þjóna, þig elska, og þér hlýda; styrk oss med þínum krapti til ad framqvæma þenna góda ásetníng í dag, svo vér lifa mættum þér til dírdar, trúlyndir og árvakrir í voru kalli og erfidi, ávarkarsamir í gudhrædslunni, stödugir í bæninni, heitir í þacklætinu og lofgjördinni til þín, þennann dag og alla tíma allt til æfiloka, Amen.

## Fimtudags Qvøld-bæn.

Gud! vertú oss syndugum líknsamur! dagurinn er ad qvøldi kominn, og vér svo einum degi nær fluttir eilífdinni, vorum reiknfngsskapar og uppskéru tíma; vitni nú vor samvitska, hvørninn vér búid høfum oss undir hann í dag! æ! mørg tækifæri, sem oss ádeginum frambodist hafa til góds, eru mid

ur hagnýtt, enn vera skyldi, og fleir-
um þó að eilífu sleppt, mörgum
heilla stundum ónytsamlega eydt;
margir dýrmætir velgjörníngar,
þánkalaust af oss medteknir, og gá-
lauslega brúkadir, eru í dag ónýttir
á oss; æ! margvíslegt er vort gá-
leysi! allt þetta vitnar nú í gégn oss,
hvörsu þúnglega vér erum undir
syndina seldir, hvörsu lítid oss dag
frá degi ágeingt verdi ad fullkomn-
ast í elskunni, í þacklætinu vid Þig,
og hlýdninni vid þín blessud bodord;
til þessa hefir: Þú þó nádarsamlega
sparad oss í dag, og svo marga dága,
sem vér lifad höfum; æ! gacktu þó
ecki í réttlætis dóm vid oss, gódi
Fadir! fyrir Þér er enginn madur,
ecki hinn fullkomnasti jafnvel rétt-
látur, heldur syndu oss vægd og vork-
un! Þú vor Skapari! þeckir best, af
hvörsu breisku verkefni vér erum
gjördir! minnstú þinnar grunlausu
gædsku (Kristó Jesú, og afplána allt
vort

vort ránglæti! taktú oss undir þína guddómlegu vernd og varátekt á þessari nóttu og frelsa oss frá öllu illu, því vér vonum á þig, Amen.

## Föstudags Morgun-bæn.

Lofadur sé Gud og Fadir Drottins vors Jesú Krists, og fyrir hann vor allra nádugi Fadir! vér birtumst nú fyrir þér á þessa dags morgni, gladir af þinni miskun, og fagnandi af þínu hjálpræði; vér þöckum þinni gædsku fyrir alla þína födurlegu velgjörnínga, og prísum þitt nafn fyrir oss veitta værd og vernd á afliðinni nóttu. Í þínu nafni byrjum vér daginn, og í fullu trausti til þinnar adstodar viljum vér óqvídnir mæta dagsins þjáníngum; vér lifum í heimi fullum freistínga, sjálfir erum vér breiskir, og vort hjarta táldragandi, æ! Drottinn! yfirgéfdu oss því ecki þín

veiku børn, lát, þinn ótta vakandi verá í oss, og þinn krapt fullkomnast í vorum vanmætti, svo vér aldrei viñum það fyrir svikula syndarinñar skémtun, ad yfirgéfa veginn þinna bodorda; o! vor blessadi Endurlausnari og Talsmadur Drottinn Jesú! bid fyrir oss þinn himneska Födur, ad hann í dag og alla tima, sem oss ætladir eru ad dvelja í heiminum, vilji nádarsamlega vardveita oss frá heimsins vondu dæmum, fysnum og hneixlunum, svo vér framgánga mættum vislega eins og á degi, ætid vakandi og bidjandi, ad føllum ecki í freistni; vertú í dag í verki med oss, og lát vort hjarta rétt skickad finnast fyrir þér, Amen.

## Föstudags Qvøld-bæn.

Vér þøckum þér Drottinn alvaldi Gud! því þú ert svo gódur, ad þín miskunsemi varir ad eilifu, fyrir

hana erum vér enn þá í dag med mörgum gædum ríkuglega blessadir; og frá allri neyd, fári og slisum voldugrlega verndadir; vér tilbidjum fyrir þínu augliti, og offrum þér audmjúku hjartans þakklæti fyrir allann ríkdóm þinnar gædsku, vægdar og lánglundar-geds, er þú hefir audsýnt oss í dag! medtak o! Fadir! í nád þessa ófullkomnu en þó einlægu qvøld-fórn vora, þú heyrir gjarnan audmjúkar bænir, og fyrirlítur ecki vort veika barna qvak; Fadir! í þína voldugu umsjón felum vér nú aptur líf og sál, hús og eignir, og allt þad þú hefir oss gefid; Drottinn! vér erum þín handaverk, og í Jesú Kristó fridkeypt útvalin børn, lát oss ecki glatast, lát engann rífa oss af þinni hendi. Umkríngi oss þín guddóms nálægd, svo ad hvørt vér sofum edur vøkum, lifum eda deyjum, séum vér þó þínir! gef oss, o Jesú! vært ad sofa í þínum

 fridi,

fridi, ad vér á morgun gladir upp-vakna mættum til ad vídfrægja þína dýrd þadan í frá og ad eilífu, Amen.

## Laugardags Morgun-bæn.

Allt hvad andardrátt hefir, lofi Drottinn eilíflega! já, þacka honum og prísa hann, mín sál! á þessa dags morgni, sem verid hefir sól og skjøldur yfir þér á umlidinni nóttu! Drottinn! þú lætur ei af ad gjøra vel vid oss, daglega er þín miskun ný, og hvørr dagurinn segir þad ødrum, og hvør nóttin kunngjørir þad annari, því skyldum vér þá þegja, vér, sem frá módur-lífi, allt fram á þessa morgun-stund, reynt høfum þig trúfastann verndara, fødur og forsvar. Æ! ad þessi upprennandi dagur mætti nú vekja vorn anda til verdugrar þacklætis lofgjørdar þínu nafni, fyrir allar fødurlegar velgjørdir, sem þú veitt

hefir

hefir oss í nótt og alla umlidna viku, þó vér høfum þrálega syndgad í gégn þér, og vanrækt skyldu vora. Efl med oss lyst og krapta til ad endurkaupa trúlega tídina í dag, ad umbæta þad, sem á vikunni forsómad høfum, og ad elska þig því heitara, sem þú fyrirgéfur oss fleiri afbrot. Géf oss á þessum sídasta vikunnar morgni svo rækilega ad minnast vors upprisu morguns og endurlífgunar-dags af grøfinni, ad vér afklífa mættum þenna dag og hvørn dag hédan af, eins og hann vera ætti vor sídasti, og vér ad komanda morgni búast ættum vid ad uppvakna til óforgengilegs lífs og heyra vorn dóm, Amen.

## Laugardags Qvøld-bæn.

Líknsamur er Drottinn, þolinmódur og harla gódgjarn, sem í dag og alla umlidna viku hefir oss og

og allt vort svo dásamlega verndað og blessað, að eckert brestur á allt það góða, sem hann hefir lofað oss, og vér verið høfum hæfilegir til að þyggja; lofað sé hans dírdarfulla nafn að eilífu! sem enn þá auðsýnt hefir á oss stærð sinnar miskunar, aukið vorn náðar-frest-um eina viku, og á henni yfirausið oss marg-føldum velgjørdum í voku og svefni, með bjørg og blessun, hlífð og varð-veitslu, heilsu og hamíngju, fyrir-gèfið oss margar syndir, veitt oss margfold gjæði, marga uppørfun til egin farsældar eblíngar, til að verka vora sáluhjálp með ugga og ótta, með dygð og guðhræðslu; æ! hvað erum vér, Drottinn! og hvað eru vor verk þess verð, að þú svo mildilega hefir breytt við oss, og føðurlega leidt oss híngað til, já, vilt nú framvegis gjøra oss til góða; hvað ófullkomin er þó ecki vor dygð, hvað alvørulítil vor betran,

hvad köld vor elska og vort þakklæti, hvad hvikul vor hlýdni, hvad ávaxtarlítil vor gudrækni! æ! allir vér brjótum margfaldlega! snú þó samt ecki frá oss þinni náð, yfirgéfdu oss ecki, því þá erum vér glatadir; fyrirgéf oss allar vorar misgjørdir, allar dagsins syndir, og vikunnar vangjætslu; miskunna oss og heyr vora bæn sakir þinar grunnlausu gædsku og óbrygdanlegu nádar fyrirheita í Jesú Kristó vorum Lausnara; í hans nafni leggjum vér oss óhultir til hvíldar; í hans nafni treystum vér því, ad þó þessi nótt verda ætti vor sídasta, muni daudinn sjálfur snúast oss fyrir hans dauda í blessadann værdar-blund, og ætíkilega lausn og frelsun frá allri eymd og mædu; þá erum vér eilíflega sælir, Amen.

---

## Bæn eptir Prédikun á Helgi-dogum.

Eignað í Hagri. Stephensen.

Lof og prís og þackargjerd sé þér mildiríki Gud og Fadir, ad þú létst ofs, sem ráfudum í vanþeckingar- og villu-myrkrum, uppreinna fagurt ljós þinna-sannleiks orda, kénndir ofs ad þeckja veginn til eilífrar farsældar, nefnilega: þig einann ad vera sannann Gud og Jesúm Kristum af þér útsendann, til upplýsingar, betrunar og frelsis þínum manna-sképnum; kénndir ofs ad þeckja þitt visdóms-rád ofs til leidréttingar, þínar ályktanir um ofs, vorar skyldur vid þig, ofs sjálfa og vora medbrædur; kénndir ad þeckja vora áqvordun til ævarandi gledi og ánægju, ef vér ad eins hlýdnumst þínum fodurlega vilja og kappkostum í ollu voru líferni ad láta í ljósi ávertu verduga þinni þeckingu og dýrkun, og trúl[...]

fylgjum vors Meistara Jesú lærdómi og dygda-dæmum. O! ad vér jafnan létum oss hugfast ad laga allt vort líf eptir þínu ordi og vilja, daglega ad taka framförum í vísdómi og dygd, í stuttu máli: verda þér í fullkomlegleika ælíkari, þóknanlegri og verdugri til innanna tignarlega nafns og fyrirheitnu fullsælu med sjálfum þér. O! ad síst þurfi rætast á oss, ad Jesú lærdóms ljós hafi oss skinid, en vér þó framar elskad vanþeckingar og andvaraleysisins myrkur, enn þetta skjæra ljós, hvorsvegna Jesú af oss vanvirdtu ord á sídan skulu dæma oss á efsta degi, heldur ad þessi lífsins ord mættu verda þinn kraptur til vorrar sáluhjálpar. O Gud! þú þeckir þad marga, er oss kann ad tæla og afvega leida, vorn vanmátt og vorn breiskleika, þín nád vorkénni vorum vanmætti og þinn kraptur sé í vorum breiskleika máttugur! Amen.

# Vetrar-Bæn.

Vísdómsfulli aldaña Stjórnari, vor Gud og mildiríki Fadir! þú hefir skapad sumar og vetur, blídt og strídt, hvørutveggju þessu megnar þú einn ad stjórna þínum mannsképnum til besta; þinn vísdómur er óransakanlegur, og þinn vilji óumbreytanleg gædska, þad er vor einka vón og huggun þinna veiku alls-þurfandi sképna, sem med tímanna straum, og tilfelkanna biltíngum framleidum vora óvissu daga-tølu, sem æfintýri; æ! vér þeckjum þad og þøckum þína gædsku, gódi Fadir! sem verndad hefir oss svo dásamlega og vardveitt allt til þessa tíma, ad vér ei høfum, svo ad segja, steytt fót vorn vid steini, þú hefir ecki einúngis hlíft oss vid øllum slisum aflidid sumar, heldur þar á ofan ríkuglega blessad oss af loptinu, jørdunni og sjónum, far-

sælt

sælt vöra útvegu, og frambodid oss fleiri blessunar gjædi til ánægju og þarfa, enn vér hofum haft vit á ad þyggja og færa oss í nyt; já, alla vora naudþurft hefir þú uppfyllt eptir þínum dírdar ríkdómi í Jesú Kristó, þad vidurkénnir nú vor sál med sonarlegu hjartans þacklæti, er vér þenkjum útí þína óumbreyttu guddóms vernd og vidhsndlun vid oss aflidid sumar; æ! vér hofum verid ómaklegir þinnar nádar, en þú hefir oss í tje látid miklar gædsku-gnóttir; og þó vér hofum ecki ætíd fengid vorar ómettanlegu, já, opt skadlegu óskir uppfylltar, megum vér þó prísa þína vísdómsfullu gódgyrni, sem veitir oss þad eina, er þú sjer oss fyrir bestu, og því bljúgir og ydrandi vidurkénna: minni erum vér allri þeirri miskunsemi og trúfesti, er þú hefir andsýnt oss, já, of óverdugir erum vér til ad þora ad vænta þess sama af þér framvegis.

En fyrir Jesú vors bródurs sakir, sakir þinna egin órjúfanlegu guddóms fyrirheita, vertú oss framveigis nádugur á komanda vetri; tak oss ad þér, sem Fadir, vér viljum vera þín born, og sem born felum vér oss med lífi og sálu og ollum efnum á þitt miskunar vald; vertú vor hlífd í háskanum, vort hæli í naudunum, vor leidtogi á ollum vorum óvissu stigum, já, vertú vor allra Fadir og Gud í Jesú nafni, í hans nafni bidjum vér, í hans nafni bænheyr oss, Amen.

## Jóla-bæn.

Lof og dýrd sé Gudi í hærstum hædum! sem eptir sínu óransakanlega vísdóms- og miskunar-rádi, hefir frá eilífd fyrirhugad oss syndugum monnum hjálpar-medal í sínum eingétnum elskulega Syni Jesú Kristó, sem í uppfyllíngu tímans, er af Fodursins skauti útgenginn,

fædd-

fæddur af qvinnu, og lögmálinu undirorpinn; lof og heidur sé þér, Guds eingetni Son! þú Födursins dírdar ljómi, og sanna ímind hans guddóms veru, sem oss ert í heiminn sendur og géfinn til réttlætis, vísdóms, helgunar og eilífrar sálu-hjálpar! velkominn vertú oss þinni kristni! sem af þínum guddómlegu lærdómum helgud og upplýst er, til ad þeckja á hvorn hún trúir, og þá sælu arfleyfd, sem oss öllum er fyrir þína holdtekju og híngad-burd inn-siglud í von eptirkomandi gæda. Velkominn vertú oss, o Jesú! vor blódteingdi bródir! sem med þinni blessadri fædíngu, blessad og helgad hefir vora fædíngu; þú gjördist veikt og hjálparþurfandi barn eins og vér, þú ert oss, ad öllum syndlausum breiskleika, líkur ordinn, þú vilt því bera vorkunsemi med oss, þínum brædrum, og styrkja med þínum krapti í öllum vorum breiskleika; blessi-

blessud og hátídleg veri oss þín fædíng! veri hún svo andvirdileg, sem hún annars var fyrir heiminum, hún er oss þó, sem trúum á þitt nafn, dírdlegt fridar-merki á milli Guds og manna, já, ríkugleg blessunarlind allra gæda tímanlegra og eilífra. Vér nálægjum oss í þankunum þínum fædíngar-stalli, og tilbidjum þig, heimsins Lærimeistara, géf oss ad fylgja þínum sannleika! vér ákøllum þig vorn sáluhjálpara, géf oss ad standa stødugum í þinni vidurkénníngu og guds ótta allt til æfiloka! vér prísum þig vorn Dómara, æ! géf oss svo hér á jørdu ad taka þinni fædíngu og fædíngarnotum, ad vér á sídan fyrir þínum dómi, álltaft mættum verdugir ad innleidast í þína dírd, og þar undirtaka og samsýngja med øllum himneskum hirdsveitum, englum og útvøldum þinn lofgjørdar prís ad eilífu, Hallelujah!

Eignud M. Stephen

# Ný-árs-bæn.

Eilífi aldanna Fadir! hjá þér eru þúsund ár, sem einn dagur og einn dagur, sem þúsund ár; þinn aldur er æ hinn sami, en oss flytur hvørr dagurinn, vikan, árid, öldin nær tímans og eilífdarinnar alda-mótum, nær enda vors aldurs og dóminum. Oofluga straumur tímans hefir, hradar enn vér alvarlega fengum adgád, borid oss enn þá á-fram um eitt ár nær þessum oss merkverdu takmorkum. O vor Gud! óttaslegnir rennum vér aug-um til umlidna ársins og þessara takmarka; árid útrañ, en vér blygd-umst ad líta til þessa af oss misbrúk-ada tíma. Vér medtókum af þinni födur-hendi allt þad gott til sálar og lífs, sem þín milda forsjón sá oss fyr-ir bestu, flestir nutu heilsu og hag-sælda, ánægju og nægrar atvinnu, flestir ríkuglegrar blessunar af lopti,

jordu og vøtnum, og blessunar í störfum og útréttingum. Þitt ord vakti oss af andvaraleysinu, lýsti oss á dygdanna veg, og hvatti ad skunda hann, en vér daufheyrdumst vid þiñi raustu, og adhylltumst øllu framar heimsins skárádu giñingar, medtókum þitt ørlæti og fødurlegu blessun þackarlítid, og virdtum allt þetta, sem smámuni, þínar bendingar med kaldsinni og dofinleika, þitt lánglundar-géd og miskun med uggleysi, ef ei med forherdingu. Æ! vor Gud! viljir þú f réttlætis dóm vid oss gánga, Drottinn! hvørr fær þá stadist! viljir þú med árinu enda vora daga og þína nád vid oss, med hvílíkri skélfingu mættum vér þá ei horfa fram ad því óttalega, sem á eptir færi! En - vér bidjum, líknsami Fadir! og vitum þó ei hvørs bidja ber, vér fulltreystum þinni miskun, ad þú sjáir vægd vorum, vondsku-háttum stórum; ad þú med vel-

velþóknun medtaka viljir þá veiku lofgjörd, sem vér nú vid þessi áraskipti af iñsta hjartans gruñi frambærum samhuga fyrir þig. Æ! eilíft lof og ódaudlegar þackir séu þér, vor Fadir! fyrir alla þína trúfesti, og miskun vid oss, alla þína dásomu handleidslu á oss um aflidid ár, vér bidjum og fulltreystum þinni forsjón, sem allt híngad til hefir oss svo fødurlega añast, ad þú á í høndfaranda ári látir þitt sannleiks ord vera lampa vorra fóta og ljós á vorum vegum, sendir þann sanna vísdóm í vor hjørtu, þann vísdóm, ad óttast og elska þig, fram yfir alla hluti. Vér fulltreystum því, ad þú, sem miskunar þig yfir øll þín handaverk, og stjórnar þeim øllum med svo mikilli umhyggju, ad engiñ titlíngur fellur á jørdu án þíns vilja, ad þú, sem talid hefir øll vor høfudhár, og veist á hvorju vér høfum þørf og af hvorju not, sem oss er

sjálf

sjálfum hulid, munir fyrir Jesú sakir alla hluti vid oss betur gjøra, enn vér skynjum um ad bidja, munir því blessa, vernda og vardveita oss alla á sálu og lífi, á (komanda) nýbyrjudu ári; blessa og styrkja vorn Konúng, og hans háa hús, blessa kristninnar hofud-stéttir hjá oss, hússtjórn, valdstjórn, kénnidóm, blessa einn og sérhvorn medal þinna mannsképna, blessa vort naudþreyngda fødurland med haganlegri og frjófsamri vedurátt, jardarinnar, hafsins og vatnanna ágóda, landsins og lífsins ávøxtu, blessa hvørs og eins størf, ydn og sveita í ærlegri sýslun, vor ferdaløg og útréttíngar á sjó og landi, vernda og blómga réttsýna kauphøndlun og vidskipti manna á milli; bjóda hafinu ad láta oss sína audlegd og blessun í tje, bjóda, ad himininn ei til lengdar né til hallæris verdi oss sem járn, eda jordin sem kopar, bjóda styrjøld og drep-

drepsóttum ad gánga framhjá vor-
um veiklidada og fámenna hólma,
bjóda hrigd og þjáníngu þeirra, er
stynja undir sjúkdóms og mótlæt-
inganna þúnga á þér þægilegri og
og vorum lídandi brædrum hent-
ugri tíd, ad snúast í gledirikan fögn-
ud; já, munir blessa lærdóms-mer t-
vor á medal og alla framfarar
vidleitni í vísdómi og dygd, og lokf-
ins blessa oss alla med luckusælli
rósemd og fridi; innbyrdis fridi og
ástsemi í voru landi, fridi á vorum
heimilum, ad engin úlfbúd né tvi-
drægni megi sundurslíta vor sameg-
inleg kjærleiks- og samheldis-bönd;
fridi í vorum hjörtum, samvitskun-
ar dýrmæta fridi, þeim fridi vid þig,
sem allur heimurinn og hans glaum-
ur ecki fær géfid. Kénn oss svo ad
telja öll vor æfi-ár, mánudi og daga,
ad vér vísir og forsjálir verdum, svo
ad brúka sérhvort ár og þess daga
ámedan ný ár og nýir dagar géfast
oss,

oſs, ad vér óſkélfdir vogum ad mæta fyrir eilífdarinnar dómſtóli, ad lidnum æfinnar árum, med reikníng fyrir brúkun vorra ára og daga hér í heimi. Í Jeſú dýrmæta nafni bidjum og vonum vér alls þeſſa mildiríkaſti Gud og Fadir! hans vegna munt þú því fylla alla vora naudþurft eptir þínum dýrdar ríkdómi! Amen.

## Páſka-bæn.

Ódaudlegar þackir dírd og heidur ſé þér alvaldi Gud! mikill ad rádi, og mektugur í athøfnum, þú, ſem med þínum volduga krapti, útleiddir af daudanum hinn mikla hyrdir ſaudanna, Drottinn Jeſúm Kriſt! vér lofum og tilbidjum þitt háleita nafn, og príſum þína heilſuſamlegu nád, ſem nú er opinber ordin øllum heimi í vors Endurlauſnara dírdlegu uppriſu; nú hefir þú til

til fulls auglŷst hann ad vera þinn eingétinn Son heimsins Lausnara, ljós og lífgjafara; nú er hans lærdómur og Evangelium innsigladur og stadfestur guddómlegur sannleiki; nú eru øll þín fyrirheit í Jesú Kristó uppfylld og ad eilífu sønnud ad vera já og Amen, já, nú er lífid og ódaudlegleikinn í ljós leidd. Daudi! hvar er nú þinn broddur og banvæna sigd? Jesús lifir, svo, þó vér deyjum munum vér þó lifa, lifa med þér o Jesú! lifa eilíflega sælir. Daudi, grøf, og forrotnan! hvar er nú þinn sigur? Jesus lifir, og hefir í sínum fridþægjandi dauda og sigursælu upprisu afmád alla þína skélfingu, svo þú ert nú ordin værthvíldar og geymslu herbergi til dýrdlegrar endurlífgunar øllum Guds børnum: nú kunnum vér midt í daudanum sigrihrósandi ad sýngja þér lof, gódi Gud! sem oss hefir sigurinn gésid fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist,

já, vér erum þess fullvissir, ad þegar vér einúngis kappkostum ad berjast undir þínum merkjum, vor upprisni Lausnari! lifum og lídum eptir þínu dæmi, svo munum vér ad lyktum, sem þú, í þínum krapti fá sigrinum haldid! sé oss þín hátídlega upprisu minníng, o Jesú! í dag, kroptug upphvatníng til endurnýjúngar lífdaganna framvegis, svo þegar vér til fulls afklædast fáum forgengilegleikanum, ad vér þá endurnýjast mættum til vegsamlegs lífs og sælufullrar skodunar þinna dýrdlegu dásemdar verka, vor Gud! lofadur og blessadur nú hédan í frá og ad eilífu, Amen.

## Uppstigníngardags-bæn.

Háleitlega heidradur og vegsamadur sértú, af öllum túngum engla og manna, Drottinn Jesú! sem í þinni dýrdlegu uppstigníngu upp-

uppḣafinn ert yfir allt hvad hátt og háleitt nefnast má á himni og jördu; úr duptinu upphefjum vér vorn huga og sál í hædirnar til þín, og í heilögum hugleidíngum leitum þess, sem þar uppi er, hvar þú ert, vor bródir Jesú! hvörr vill nú framar áklaga oss þín útvalin börn? þú Gud! ert sjálfur, sem réttlætir; hvörr megnar þá ad fordæma? þú Kristi! ert sá, sem lidid hefir og dáinn ert, já, miklu framar þú, sem upp aptur ert vakinn, þú, sem setstur ert til kraptarins hægri handar og bidur fyrir oss; o! skyldum vér nú vora stuttu hérveru tíd, lengur leita vorri ódaudlegu sálu ánægju í svikulli syndarinnar skémtun, í gjálífi og heimsins fánýta hégóma, vér, sem eigum sælufullann ódaudlegleika í vændum á himnum med þér, vor upphafdi Lausnari! skyldum vér meta fallvölt stundar gjædi fyrir vort ædsta góda, og nidursöckva

oss i munadarlísi, en ecki miklu framar hafa vòra umgengni á himnum, hvar vor borgar-réttur er, og hvadan vér væntum Frelsara vors og Drottins Jesú Krists; þángad hefir þú, o Jesú! vísad oss veginn, drag þú vor hjortu, laungun og vilja eptir þér í hædirnar, svo vér ætíd gladir af voninni høfum vorn huga festann á því himneska, óforgengilega eilífa, og leitum oss mádsemdar med því ad gjøra oss-æ hæfilegri og hæfilegri til inngaungu í þá sælufullu vistar-veru, sem þú vor Frelsari ert undan oss genginn ad tilbúa oss med sjálfum þér í himnariki eilíflega, Amen.

## Hvítasunnu-bæn.

O þú sannheilagi guddóms Andi! Andi ráds og skilníngs, Andi vidurkénníngarinnar og ótta Drottins! þú vor Leidtogi og Lærimeist-

ari

ari, til eilifs lifs! þig lofum og dýrkum, þig ákøllum og tilbidjum vér á þessari dýrdlegu hátíd, og stiptunar-degi Jesú Kristi kirkju á jørdunni; uppfyll nú vor hjørtu, og vorn helgidóm med þinni gudómlegu sérlegri nádar nálægd, svo vor þjónusta mætti ské med réttum anda, og verda þér, vor Gud! velþócknanlegt offur í dag; lát þinn allt megnanda krapt, sem voldugtega útbrynjadi og styrkti Jesú Postula til einardlegrar sannleiksins vidurkénningar, lát hañ og svo verkandi vera í vorum hjørtum, ad vér fúsir og viljugir hlýdnumst og fylgjum þeim vidurkénnda sannleika; upplýs vorn skilning! géf oss vísdóm, greind og djørfúng til ad þeckja vondt frá gódu, dygd frá løstum, lyst og krapta til ad fylgja sannleikanum og elska hann, hughreysti og alvørugéfni til ad yfirvinna sjálfa oss, allar freistingar, hræsni og hreck-

 vísi,

vlsi, og allt þad þér er mótstædilegt; opna vorn munn, hug og hjarta til ad tala og þenkja um og vidfrægja þínar dásemdir; helga vorn vilja til fúsrar framqvæmdar alls þess góda, er þú géfur oss krapta og medöl og tækifæri til, svo vér med ordi og verki í öllum hlutum ordid gjætum verkfæri í þinni hendi til ad efla Guds dírd, verka vora sálu-hjálp, og styrkja til ad rótfesta kristinndómsins kjærleiks-anda á medal mannanna. Æ! helga þú oss í sannleikanum, vidhald oss í trúnni, hreinsa vorar samvitskur frá öllum daudlegum verkum, gjör oss kroptuga, heita, stödugu í bæninni í lofgjördinni og þacklætinu til Guds, ávartarsama í gudhrædslunni, þolgóda í þrautunum og vonglada í daudanum, ad vér þá hafa mættum þinn vitnisburd grundvalladann í vorum sálum um þad vér sém Guds börn og erfingjar eilífs lífs,

lífs; bænheyr oss, góði heilagi Andi! þér sé lof og dírð um allar aldir, Amen.

## Sumar-bæn.

Vegsamað sé þitt dírðarfulla nafn að eilífu, alvoldugi tímanna Stjórnari! þitt orð, Drottinn! er sannleikurinn, og þín fyrirheit bregdast aldrei; þú býður, svo skéður það, þú skipar, og það stendur svo, þín stjórnan er dásamleg, og þín niðurraðan í náttúrunni raskast ecki um aldur og æfi; þú hefir skapað sumar og vetur, ljós og myrkur, frost og hita, blídt og stríðt, allt hefir þú það tilsett til þarfa oss þínum sképnum; sú vísdóms skipan stendur enn þá stöðug; veturinn er afliðinn, en sumarið tekur við; lof sé þér fyrir liðnar lífs stundir! já, eilífar þackir séu þér fyrir hlífð og viðhald, bjerg og blessun, og allt gott

oss veitt og gefid til lífs og sálar á umlidnum vetri, því framar, sem vér höfum verid komnir uppá þína nádugu varatekt, því áþreifanlegri hefir þú audsýnt oss hana; þú hefir hlíft oss fyrir verdskuldudu syndastraffi, fyrir slísum og líftjóni, engin almenn neyd hefir nád ad granda oss, edur voru kjæra fødurlandi; allar vetrarins óblídur, allar þínar fødurlegu bendíngar til vor, hafa stýladar verid med náqvæmustu vægd og vorkunsemi, já, øll þín vidhøndlan, ráð og vegir yfir oss hafa verid einskjær miskun og trúfesti; vér høfum syndgad, vér høfum verdskuldad reidi, en þú hefir audsýnt oss nád, æ! lát hana framvegis vidhaldast yfir oss, í Jesú nafni! gef oss med nýju sumri nýja blessun; farsæl oss þínar gáfur, þitt lán og allar skepnur; farsæl vora útvegi, vort erfidi og atvinnu, og allt þad vér tøkum oss fyrir hendur til sjós

og

og lands í þínum ótta! bjóð lopti, jord og sjó ad færa oss þína blessun, en géf oss med þacklæti og sonarlegri audmýkt ad taka vid því öllu, hvort þad-verdur mikid edur litid, sem þín speki álítur þénanlegt ad úthluta oss til hagsælda og nota af jardnesskum gædum þetta sumar. Efl hjá oss stödugt trúnadar-traust til þinnar forsorgunar, og vardveit oss frá óþarfa vöslt og heidínglegri búksorg! Þú vor himneski Fadir! veitst hvørs vér vidþurfum, uppfyll alla vora naudþurft, eptir þínum dírdar ríkdómi í Jesú Kristó, í hans nafni byrjum vér gladir sumarid, géf ad þad verdi oss blessunarrík og notasæl undirbúníngs- og fullkomnunar-tíd til ríkuglegrar uppskéru á sídan í eilífdinni, Amen.



# I. Viku-Psálmar.

## A.) Morgun-psálmar.

### No. I.

Lagid er: Pjer þackir gjørum.

Ljómar ljós dagur, lífs kjætist hagur, sætt ljós sveit vekur, sól nótt burthrekur; oss, Fodur alda, eilífum gjalda, þock ber þrefalda.

2. Látum lof hljóma, lífs fyrir blóma; geymslu Guds besta, gædsku-nægd mesta, þacklátir hyggjum, þar til mest byggjum, ad hann ei styggjum.

3. Vort kall vel rækjum, vort gagn rétt sækjum, óttumst Gud eina, elskum dygd hreina, sátt og samlyndi, sem er lífs yndi, bæn og bindindi.

4. Verum von-gódir, vel þolinmódir, þraut af-þreyjandi, þar á treystandi, síst Drottinn sefur; sinni líkn hefur heitid, hjálp gefur.

5. Alls góds uppruni, oss Gud miskuni, sál, líf, líkama, hans líknarsama hond,

Hönd geymi, hlynni hann í náðinni, að arfleifð sinni!

6. Mín sál, minn andi, mín raust syngjandi, o Guð upphæða! um þinn prís ræða, vel sé við-tamen; vegsemd skal samen, þér og þock, Amen!

## No. 2.

Lagið er: Herra! þjer skal heiður og lotníng gr.

Morgun-stundin mig en skjæra kjætir, mér nátt-blundinn géfinn væra, sætir. Guð! eg beiði, glæp mig sneiði, gjæfu leiðir, greiði og neyðir bæti.

2. A dags róli og í bóli náða, ausnu-hjól þó biltist, skjólið dáða, veri landi voru og standi, varni grandi, Guð, huggandi hrjáða!

3. Biltíng jarðar, breytíng daga og nætur, beint ágvarðar; Guð svo hagar mætur, eins nátt-blund, sem ár-dags stund og aðrar mundir, kjæta lundir lætur.

4. Ef hér slæðast að vandræði sjáv-um, öll þau græðast, dýrðar gjæði er fáum; heims um svæði, hug þó mæði, hriggð, volæði, æðra næði náum.

5. Mig

5. Mig befælann, minn Jesú! ásjádu, tvér yndælann fögnud trúar ljádu! tíd er straumur, tími naumur, tál heims glaumur; ad mér aumum gádu!

6. Þessi dagur þá lífs-tídum hallar, þær burtdragast hljóta um. síd' gjörvallar. Þeim All-valda, þock skal gjalda, þann margfalda, prís, um aldir allar.



No. 3.

Lagid er: Rís upp, mín sál! og bregd nú bl.

Lít eg enn daginn létta hŭmi, leptid purpura-geislum strád; eg, sem lík ádan lá í rúmi, líf nýtt þygg af míns Födurs nád; sje, tilbid, undrast yfir því, ad hlotid hefi fjör á ný.

2. Þessi reynsla, þó þeigi annad, þar um óræk mér gefur skil; og í undrandi sál fær sannad sannleik þann: ad einn Gud er til alvaldur, gódur, öllum nær, umsjá holla, sem sképnum ljær.

3. Hann lætur sképnur lúnar deyja, líf nýtt upphygdum gefur þeim; um augnablik í eymdum þreyja, um eilífd fagna í betra heim; deyja hlýt eg; í himnavist hold forklárad svo medtakist.

4. Vid

4. Vid von þá styrktur vil eg bída, vernd Guds míns Fodurs treysta hér; mót heimsins lostum herkinn strída, hins leita; sem þar uppi er; holdid temja, sem heimvon þá helgad med sál skal erfa fá.

5. Æ! styrk mig, Fadir! upp svo rísi! og lifi þér, sem sképna ný! þíns ords og dæmis ljós mér lýsi, lastvar svo gángi fram í því! uppnísinun, lífs nær útlegd þver, er mér þá sæla vís hjá þér.

## No. 4.

Lagid er: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ast þína, Gud! enn mér bodar upprennandi morgun-sól; þig ad prísa, er vardir voda, vera lédir hvíld og skjól, fyrst skal ydja og munnsins mál; mín af blundi hressta sál kriúpi flot á fótskor þína, Fodurs mildi ad prísa brýna!

2. Blunds í fadmi eg lá, sem lidinn: líkn þín vakti og til mín sá; endurnæring, nædi, fridinn, nádug veitti þín forsjá; nýtt gafst aptur enn mér fjor, ótal bjóst mér heilla kjor, er eg njóti uppvaknadur yfir þinni miskun gladur.

3. Lífs þess krapta áttú alla, er mér gafstú nýtt í dag; til þín þenkja, þig ákalla í þrautum skal og gledi-hag; lífs míns Fadir! lögin þín lífs-regla sé jafnan mín! ein tilfinníng ástar þinnar unadsemdin sálar minnar.

4. Eg vil þín med lotníng leita og lífs vid sporid finna hvert; í elsku og dygd þér eptirbreyká, eins hreinskilinn leynt, sem bert; þú, minn vilja og veikleik sér; vertú aldrei fjærri mér! lífs mig svo framleid hvorn daginn, loks ad dírdar ersi' eg haginn.

## No. 5.

Lagid er: Sólin upprunnin er.

Enn til lífs alvald þitt, á ný mig fæddi af dúrsins dái og mitt dug nýjum gæddi lífs-fjor, sem lá lúid á fótskor þinni; vernd þín, sem vidhéldt mér vottar, eg enn sé þér, minn Gud! í minni.

2. Því skal mín þacklát sál þér aldrei gleyma; hegdan hjarta og mál holl bod þín geyma; med nýjum dug í dag sér fast ásetur, ad stunda alla dygd,

en

en fordaſt ſynda-ſtygd, ſem gjørſt hún gétur.

3. Eg er í hættum heim; holdið mig letur; en, mót óvinum þeim þín adſtod hvetur; eg formá allt ef þinn kraptur mig ſtydur, ſúrt hvad ſem ſúpa á, ſikra þíns Anda má ſylgi og fridur.

4. Aldrei yfirgaſſtú þann á þig treyſti; vera ſkal viſſa ſú vorn mín og hreyſti; í qvøld eg mun áſt og nád lýſa þinni, ad héldtſt mér á þeim ſtig ad óttaſt, Fadir! þig, ſvo frid eg finni.

## No. 6.

Lagid er: Rís upp, mín ſál! og bregd nú bl.

Hýr aptur morgun blída broſir, breid-ir út heill og lífs-fognud; vid annir heims ſig ønd mín loſi, og til þín ſkundi, gódi Gud! fyrſt allra þock ſvo færi þér fodurlega ſem vidhélltſt mér.

2. Hollt í ſvefnværdum hlaut eg nædi, hreppti nýtt líf og krapta þar; hús mitt, líf, velferd, lánid, gjædi, læſt í míns Fodurs hondum var; mín gjætti forſjá fodurlig ſéck ei hid vonda nálgaſt mig.

3. Þygg í náð, Fadir! þá sem flýtur þock af viknuðu brjósti nú; heppinn er sá, sem hælis nýtur hjá þér og setur á þig trú! æ skaltú vera athvarf mitt, aldrei bráſt mér fulltíngi þitt.

4. Æ! hjálp mér, svo með alúð vandi allt mitt framferdi trúr í dag; vilja þinn, Fadir! vel stundandi velferd mína og brædra hag; leið mig á fótspor Lausnarans, sem leiða mig til himna-ranns!

5. Med hugfró eg þá hlaup mitt þreyti; Herra! þín forsjá leidir mig; eg veit þitt heitord aldrei breytist: elskar þú þá, sem stunda þig; þú ert minn Fadir ástargjarn, eg í Frelsarans trú þitt barn.

## No. 7.

Lagið er: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Dagur austur-lopt uppljómar, ljóssins Herra! dýrd sé þér! maktar vernd og mildi dóma miskun þín oss jafnan tjer. morgun rodans blídri brún, blessud enn nú gledur hún. Af sæng uppstondum sætt vaknadir, ad syngja lof þitt, hjartans Fadir!

2. Þared Stýrir lýds og landa, líks og heilsu veitir hnoss, lát þinn sannleik, ljós og Anda, leida, skína og styrkja oss! ad þjóna, Gud! í þeirri stétt, þú hefir hvørjum einum sett! allt hvad misvinnst, allt hvad grætir, Endurlausnarinn Jesús bæti!

3. Veldis þíns í ollum áttum oss hvad skøpst til heilla þú, eptir sínum edlis-háttum, edli vora farsæld nú! gefdu þenna gódann dag, Gud! í nád vorn állt hag! medan lifum blessun, blóma! burt þá deyjum himin-ljóma!

---

## B.) Qvøld-psálmar.

### No. 8.

Lagid er: Þøck sje þjer gód gjørd.

Sólin rann, ljós leid, ljúfur Gud mig stýdja í dag vann, og neyd allri, burt ad rydja, af því hans er greid øllum líkn, ad bidja, enn skal mín ydja.

2. Veit mér þrótt veg þinn vel o Gud! ástunda, og, ad skjótt æfin enda nær, ígrunda, svo hefji rótt hug minn, hédan burt þá skunda, til fegins funda.

3. Veik mín dád æ er, abl og mætt- in dvína, gjorvallt ráð Guð. Þér gef eg mitt, audsýna virdstú náð í nótt mér, nú eg fel í Þína umsjón ond mína.

4. Mér ei neyd mun Þá mædu og qvölda valda, ef lífs-skeid og Þrá endar helid kalda, gefst mér Þreyd, Guð sjá, gledi og dírð margfalda, um aldir alda.

## No. 9.

Lagid er: Lángar mig í lífs-höll.

Hvíld er Þæguft Þjádum, Þeim hressingu tilbýr, Guðs ad gædsku-dádum, gjördist nóttin, morg hýr, skjær frá lýdi og ládum, laungum Þegar sól flýr; aptur værd adsnýr.

2. Lof Þeim Lífs-foringja, lif, sem geymir vort Þrótt, sætlega skal sýngja, sál og túnga mín hátt, nýrri náð umkringja, nú mig lætur sinn mátt, og hlynnir ad dátt.

3. Nú áfalla nótt vann, nádir lúdir sá menn, allann myrkra óttann, yfirgnæfir værden, lífs umferdar flóttann, farsæl endar hvíld senn, lqun sái m Þá Þrenn.

4. Mína

4. Mína daga mig lær, minn Gud! telja svo hér, ad eg skynji allnær, er sídasta qvöld mér, endíng þegar öll sæv æfi-stundin hjá þér, lífs veit mér værder!

5. Mér hlíf minn Gud vel eg, mínum lífs á vegi, aldur hvar sem el. eg, eins á nótt, sem degi, forsjá hans mig fel eg; fyrir tign hans hnegi, og sætt lof segi.

## No. 10.

Lagid er: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ljóss á vængjum leid einn dagur, lengst í vestrid frá oss inn, einn þú veitst hvört annar fagur í austri rennur nockurt sinn; Herra Gud! sem hefir rétt, himin-ljósum midin sett; ótal vitsku verkin ljóma, vald og gædsku' er þína róma.

2. Þér af hjarta þöckum gladir, þenna lidinn sæla dag; öllum meinum af verndadir, allra leitst í mildi hag; gef ad minnumst allir á; inn ad dauda bar oss sá, gef því lífid vel svo vöndum, vísst sé hlífd í þínum höndum.

3. Blund á oss lát sætann síga, síg hér þinni fódur-vörn í nótt, sem máske nákold hníga, nú þín audmjúk sela börn;

sofni augad dauda-dúr, draumi sálin vakni úr, frá nátt-dægra dymmu hafin, dírdar ljósi Þinu vafin.

## No. 11.

Lagid er: Rís upp, mín sál! ad nýju nú.

Fyrir gott allt Þú gofgist einn, Gud Fadir! Sonur og Andinn hreinn, eg Þó sé ollu minna, ljúst Þacklæti og lofqvædi, látt mitt nád hjá Þér finna!

2. Hjálp í dag tjádir mikla mér, mig hjartanlega tókst ad Þér, bænheyrdir blídt, sem fadir, mig og mitt hús miskunar sús frelstir og forsorgadir!

3. Allt hvad eg er og andi sá, í mér gladvær, sem hugsar á, ad Þín dírd eblast nædi, allt mitt verklag, enn nú í dag, eru Þín meddeild gjædi.

4. Eptir Þinni elsku og mátt, annastú mig um Þessa nátt! sjá ei til synda minna! í daudans neyd, allsherjar Gud! adstod láttú mig finna!

## No. 12.

Lagid er: O! Fadir himneski og eilísi Gud.

Himin-sól vendi í hafsins skaut inn, húmid oss bendir til værdar um sinn,

leid

leid svo til enda einn lifs dagur minn, likn vannstu senda mér, Drottinn!

2. Þér, blídi Fadir! lof þýdasta ber, þú mig verndadir og ollu frá mér, grandi vísadir, þín gnæfandi hér gædska blessadi hvad mitt er.

3. Þú, sem vel greidir mér gjæfunnar stig, gjør þad eg beidi: þín fodurhond mig annist og leidi, mín ond ørugt sig, í lifi' og deyd reidir á þig

4. Øll skal svo hrundin burt ángist og þrá, er værdar-stundin mér gledileg þá, sídasti blundur þó sigi mig á, sælum Guds fundi minn eg ná.

## No. 13.

Lagid er; Lissins ædar uppfyllandi.

Hvíldir nætur húmid bodar, Herra! sál mín gledst' í þér, af þín stýrdi ollum voda, alvold hond í dag frá mér, heilsu, blessun, fjor og frid, sann' eg andartak hvort vid, síns Guds ástar undrum lýsi, ond mín þacklát, lofi, prísi.

2. Vár eg í dag sá vera skyldi, vitna þad mitt hjarta í qvold! ávann óþreytt míns Guds mildi, mig ad fordast glæpa vold?

vold? æ! eg blygdast auga þitt, al-skygni! sjer dagfar mitt, æ þvi gjørr það yfirvega, æ því meir eg fyllist trega.

3. Fús þú brotin fyrirgéfur, Fadir! svo menn óttist þig, í það skjól mín ønd sig vefur, audmjúk, trúgód huggar sig, vid míns Jesú qvala-qvold, þá qvittadi hann mín synda-gjold, í hans nafni vænt-ir vægdar, veit það eitt til hugarhægdar.

4. Ljá mér, Fadir! fylgd þíns Anda, ad framqvæmt geti eg áform mitt, æ því meir mig allann vanda, sem afbrot fleiri gafst mér qvitt; eg sofna veit snart af mér ei, eg er þinn hvort lifi' eda dey, í fodur-hond, minn Fadir! þína, fel eg lif og sálu mína.

## No. 14.

Lagid er: Gjef þinni kristni gódann frid.

Gud Fadir! manna geymarinn, gædsku mátt þinn eg prísa, minn viphaldari og vaktarinn, vernd hollri þinni lýsa, skal míns lofsaungs vondud vísa.

2. Eg sem þíns Anda ástgjof hlaut, er þínum trygdum minni, vesæll til þeirra vægda er naut vann ei af miskun þinni, synd uppgafst mér enn eitt sinni.

3. Gud!

3. Guð! besta vera gæðsku trú! Guð minn! Guð feðra minna! frá móðurlífi minn varstú, æ! mætti' eg verður finnast, í tölu barna teljast þinna.

4. Lát mig þitt endurlífnað barn, lífs himins fögnuð vera! nú sofna' eg, Faðir! gæðskugjarn, gef mér hvíld trygga og væra! til dóms lát mig ei dúrinn særa!

5. Þinn, Faðir! verndar-væng útbreið! verji hann mig og mína! þér treysti' eg að mér tek þinn eið, trygð hef eg reynda þína, aumum miskun enn munt sýna.



# II. Missira-Psálmar.

## Vetrar-psálmur.

### No. 15.

*Lagið er; Rís upp, mín sál! að nýju nú,*

Sjá! blóminn Sumars á burt er, íklæðast vetrar búning' sér náttúran, dymma dægra og hretin hörð, lífs laða hjörð leita að skjóli þægra.

2. Sjá! vér medtókum Sumri á, sjöfold gjædi af landi' og sjá, bjuggumst vid lopts óblídu, bjuggumst vid Þorf, vor bæa-storf budu ad verjast strídu.

3. Sjá! ad lifum og sérhvad gott, sem Þegid höfum, gædsku-vott Þeckjum Drottins dásamaim. Oss hættum af hreif, blessun gaf, hann leiddi oss alla saman.

4. O Gud! Þig prísar sinni' og sál, sérhvad sem bærir raust og mál; Þig lofar sképna skarinn; Þér Þackar allt lán Þúsundfaldt, Þú alheims Vidhaldarinn!

5. Þó vér höfum til reidi reitt réttlætid Þitt, en gott oss veitt sinád, van-rækt og vanÞackad, Þinn ástar-brunn, Gud! oss Þó unn enn í Vetur ad smacka!

6. Vertú vor hlíf, heill, unan oll, allt hvad lifir um dali' og fjoll, til Þinnar mildi mænir; gef blessun, braud, burt-vísa naud og boli, sem ró oss rænir.

7. Lostum deyja' en lifa Þér léna oss styrk, svo fáum vér folnadri foldu medur ad hvílast vært uns hróp Þitt skjært heimum til lífs uppqvedur!

# Nỳ-árs-psálmur.

## No. 16.

Lagid er: Herra! þjer skal heldur og lofn.

Eitt á enda ár vors lífs er runnid, enn oss sendist Guds af nádar-brunni, líkn, hjálprædi, lífsins gædi, lán og nædi, hvarf þad hræda kunni.

2. Hjartad dansi, honum fofgjörd inni, hátt til ansi túnga, mannvit, sinni, hvörr med gátt gofgi kátur Guds náð játi, lída' ei láti' úr minni.

3. Honum sálin hlýdni sverji vísa; hans vort málid æ skal gædsku prísa; vort þakklæti veri hans mæta vilja' ad gjæta, ást svo ætíd lýsa.

4. Honum selum hagi árs komanda! hann sjer vel um oss, hvad mun þá granda? oss hann skeka ei útrekur; alls ann speki hans burthrekur vanda.

5. Alvald mildin ollu þú, sem rædur! enn góðvildar sed oss þinnar gædum! audga dygdum, hamla hrigdum, hrynd burt stygdum, bú oss bygd í hædum!

# Vor-psálmur.

## No. 17.

Lagid er: A einn Gud vil eg trúa.

1.

Lof syngid! gøsgid gladir!
Gud vorn Skapara prísa ber,
Hvors fremdar vald framkalladi
Fagra jord, allann himna her,
Gøsgid þann Gud, hvors haldist
Grunnlaus hefir miskun
Frá eilífd, og um aldir
Endalaus vara mun,
Vor-fognud blídt útbreidir
Bod þitt, o Gud, vor Gud!
Þér lofgjord, þock og heidur
Þvi syngur ønd vor glød.

2.

Voldugur, vís og gódur,
Veturinn, Fadir! lérst framgá,
Her náttúrunnar hljódur,
Hvíld tók, og sem í dvala lá,
Med vor-blóma blídum vakti
Bending þín hann til lífs,
Brosti strax hýr byrthrakti,
Blíd sól þraut vetrar kífs,

Il-gjof-

Il-gjöfum ástrík fleytir
Út til vor, gleði ljær,
Fjör hressing, fróssemd veitir,
Frá hvör mót skepnan hlær.

3.
Þá grunnlaus gæðsku lindin,
(Svo gleðst náttúran öll við það)
Í daggar dropum sendir,
Dýra frjóssemd hér ofanað;
Strax blómi skógur skrýðist,
Skaut jarðar nýsked læst,
Yndælum urtum prýðist,
Aldinum, blómstrum glæst,
Lopt hlýtt, ylmur lífsætur,
Laða þau hyrda hnoss
Vor-gjæða', er Guð þín lætur,
Gæðska útbýtast oss.

4.
Um völlu' og grænar grundir,
Gæðsku þinnar bergmála róm,
Ótal þúsund-þúsundir,
Með þrá-samstilltum gleði-hljóm!
Lof þitt um loptið dunar,
Lofa þig blómstur stráð,
Fjall, laut, beljandi buna,
Buldra lof þinni náð,

Hvørt hljód fagnadi fyllt er,
Frægd syngur himna Guds!
Vor túnga ad tigni skyldt er,
Trygd. þína saung fegnuds.

5.

Ei skal þó munnur einast,
Algódi Fadir! prísa þig;
Hjartad í ástum hreinast,
Hefji med gladværd til þín sig!
Sífeld skal vor ósk vera,
Med verkandi ást og dygd,
Þér vora þock ad færa,
Þjóna gladir med trygd;
Vors lífs tóm vér þér helgum,
Vor skal ástundan sú,
Ad lærum, fúsir fylgjum,
Fadir! því skipar þú.



Jón Borgfirdinguz.

